H. E. MAGNÚSSON:

# LYKKJUFÖLL

NOKKUR SMÁ KVÆÐI

WYNYARD, SASKATCHEWAN
Prentað í Prentsmiðju Wynyard Advance
1923

# Ísland.

Ég flýði ekki af ótrygð við ættland né þjóð,
því enn er það hugljúfust myndin.
Við stóðum svo margir í glóandi glóð,
og grétum þar síðasta tindinn,
er Ísland við sjónhring var sokkið í kaf
með sólblik um jökul, í rjúkjandi haf.

# FJALLAÞRÁ

Nú fýsir mig aftur til fjallanna heim,
því friðar í æskunni naut ég hjá þeim,
og skjóls undir hnjúkunum háu.
Á vordegi, að kveldi, þá sólin var sest,
við suðandi fossanið undi ég bezt
í brekku hjá blómunum smáu.

Við fjöllin er loftið svo hressandi' og hreint,
og hrafnsvörtu björgin ei geta því leynt,
því bergmálið berst yfir völlinn,
og þar getur andi manns hafið sig hátt,
í hálendis kyrðinni glepur svo fátt,
og þess vegna þrái ég fjöllin.

Að horfa yfir dalina af háfjalla brún,
með heylöndin víðu og fagurgræn tún,
um sumar á sólríkum degi;
það útsýni veitti mér unað og frið,
sem ekkert í heiminum jafnaðist við,
og guð veit ég gleymi því eigi.

Að örlögin flytji mig austur um ver,
í áttina þangað sem kærust mér er —
þá von hef ég kosið til valda.

Ó, hversu mun tign ykkar töfrandi þá,
er tindarnir rísa' upp úr löðrandi sjá
og gull-lindum gnípurnar falda.

Þá fagnar mér alt sem ég elskaði mest
og alt, sem að reyndist mér traustast og bezt
á æskunnar indælu stundum;
er landið með dalina lít ég á ný
og lækina fossandi hlíðunum í,
en fugl inn á fjörðum og sundum.

---

Ég elska ykkur íslenzku fjöll
með álfana, huldufólk, tröll,
og elfanna fossandi föll;
ég finn að ég þrái ykkur öll.
Og hvernig sem framtíðin hag mínum snýr
í hugsjón er mynd ykkar skýr.

---

Þó fjarri þér sé ég nú, feðranna grund,
með fögnuði lít ég í anda þá stund
er lýðveldis lyftir þú merki.
Og þá halda börnin þín brosandi heim
og berjast í fylking með hetjunum þeim,
sem fylgja þér veglega að verki.

Og svo þegar valdstjórnin krýpur á kné,
og kúgarinn verður að dragast í hlé,
er þjóðinni sigurinn sætur;
og flest það sem menningin framþróun gaf

mun flytjast með sonunum vestan um haf
til fjallanna, og festa þar rætur.

Því fáir af útlendum unnu þér heitt,
og örsjaldan hafa þeir braut þína greitt,
en sært þig með svikum og ránum.
Ef fengirðu að njóta þess alls sem þú átt,
þá ættirðu í sókninni styrkari mátt,
ó, landið mitt, langt út í sjánum.

---

## Sumardagurinn fyrsti.

Nú er bjart yfir sæ,
nú er bros yfir grund
undir blikandi sólgeisla staf;
því er gengið í dag
inn á gleðinnar fund,
þar sem glampar á titrandi haf;
þar sem flögrandi hópar með kvakandi klið
fara kátir að veiði' út um rastir og mið.
Nú er vetur að minka sinn mátt,
nú er mótstaða úr hlýari átt.
Það er vordaga von —
þegar blámóðu bönd
falla í boga' yfir himin og lönd.

# Vorið Austanhafs.

Mig langar að víkja mér afsíðis einn
og anda að mér hressandi blænum;
því úti við skógana er himininn hreinn,
en hér er svo dimt inn í bænum;
og þar vil ég njóta þín nýkomna vor
með nýgræðings lífið og blómin;
þá fuglarnir kvakandi kyssa þín spor,
ég kem til að gleðjast við óminn.

En þeir kunna fáir að syngja hér sætt;
þeir sungu mér glaðari heima.
þar lóurnar gátu ekki lúðst eða hætt;
og ljúft er þá minningu að geyma:
þá draumsjónir æskunnar andi minn sér
með alt, sem er kærast að muna;
og því verð ég gestur hjá gleðinni hér,
þó gott sé við skógana að una.

Svo hugurinn slítur öll bindandi bönd,
sem bundu 'ann við skuggana og snjáinn,
en svífur með vorinu létt yfir lönd
svo langt út í titrandi bláinn;
ó, þangað sem hyllir við hafsbrún í land
með hájökla skínandi bungum,
og þangað, sem hafaldan suðar við sand
og svanirnir skemtu mér ungum.

Því nú fer að lýsa' eftir langnættið þar
og lengast um fótmál hver dagur.
Ó, þegar hann sér það í sólskini af mar
er svipurinn töfrandi fagur.
Já, útsýnið hýrnar um borgir og bæ
og bygðir á norðurheims löndum;
því nú flytja vordísir sunnan um sæ
með sólbros að íslenzkum ströndum.

Ég veit að þeir fagna þeim, frændurnir, þar
sem fjötraðir biðu svo lengi;
því harðsnúinn bóndanum veturinn var
og vindbarða stráinu á engi.
En nú skrýðist liljan í ljósbláan kjól
og lindin af bergstalli drýpur;
því náttúran hýrnar með hækkandi sól,
og himins að altari krýpur.

En svo þegar hlíðin úr læðingi' er leyst,
og laufin á víðinum gróa.
Ó, þá hefir útlitið allsstaðar breyst,
um annes og grundir og móa;
og dýrðlegum ljóma yfir dalina slær
með draumhýrum, laðandi myndum;
og alt sem að lífsandann lífgandi fær
er lifnað frá strönd upp að tindum.

Og gott á þá, Ísland, hver mögur og mær,
sem mega við brjóstin þín vaka;
og finna hve hraustlega hjarta þitt slær

þá hörpuna fossbúar taka.
Og sérhver, með heilbrigða hugsun og þor,
mun heiðra þig, hvar sem hann stæði,
á meðan að fjörgjafinn færir þér vor
og fuglarnir syngja þér kvæði.

---

## Náttmál.

Nú er fögur friðarstund;
flestar raddir þegja.
Hér er ljúft að líða í blund;
ljósin eru að deyja.
Komdu til mín draumadís
dulda sýn mér heima.
Burt frá jarðar eldi og ís
andann læt ég sveima.

Þú átt ótal undra lönd
úti' í heiði bláum;
þar má lyfta lífi og önd
ljóss á vegum háum.
Legðu mig í ljúfa sæng
langt frá öllum glaumi.
Undir þínum verndar væng
vagga mér í draumi.

# Vorhugur.

Nú er yndi úti að ganga,
andar blærinn ljúft um vanga.
— Sól í suðri skín.
Himinn grætur gullnum tárum,
glitra þau á hafsins bárum.
— Sól í suðri skín.

Lyftist hugur, léttist sporið.
Lof sé guði fyrir vorið!
— Sól í suðri skín.
Nú er eins og lífsins laugar
líði í gegnum allar taugar.
— Sól í suðri skín.

Ég get hlaupið heila daginn
hátt og lágt um allan bæinn,
— sól í suðri skín —
til að fagna góðum gestum,
geisladýrð og svellabrestum.
— Sól í suðri skín.

Ég sé ís á vötnum vaka
veltast fram í straumi jaka.
— Sól í suðri skín.
Syngur hrönn við háa bakka,
hrönglast út um vík og slakka.
— Sól í suðri skín.

Bráðum verða blátær sundin,
bráðum skreyta rósir lundinn.
— Sól í suðri skín.
Fuglar syngja í öllum áttum
ástaljóð með þúsund háttum.
— Sól í suðri skín.

Ljósið hefir rökkrið rofið;
rumska þú, sem hefir sofið.
— Sól í suðri skín.
Líttu' á vorsins geisla glóðir,
góði, reyndu að vakna, bróðir.
— Sól í suðri skín.

Sjáðu móðu binda böndin
blátær yfir akurlöndin.
— Sól í suðri skín.
Hver er sá sem elskar eigi
okkar land, á svona degi!
— Sól í suðri skín.

Finst þér ekki fossa í barmi
fjör, og stælast taug í armi?
— Sól í suðri skín.
Nú er tími' að vaka og vinna,
vígja landið óska sinna.
— Sól í suðri skín.

# Vormorgun.

Á vor morgni sat ég við sæinn
er sólin frá djúpinu rann;
mig langaði að líða út í geiminn;
sú löngun í hjartanu brann.

Þar hafmeyjar kváðu við kletta,
þær kváðu um nætur og dag:
„Ó! komið þér, sækóngasynir,
og syngið hér með okkur lag“.

Þær sungu um feðranna frelsi
og fornaldar víkinga-móð,
um nútímans dauflegu daga
og dáðleysi' í íslenzkri þjóð.

Úr hug mínum kváðu þær kvíðann
og kveiktu' í mér lifandi þrá,
að ferðast til framandi landa
um fannhvítann, rjúkandi sjá.

Ég las það á æskunnar árum,
í íslenzkri fornsögu-bók,
að hetjurnar sigldu' yfir hafið
og hafvindur sigluna skók.

Þær hræddust ei brim eða boða,
þó báturinn væri' ekki stór;
þær trúðu á mátt sinn og megin,
og margar á Óðinn og Þór.

Þær komust með hugdirfð og hreysti
um hyldjúpan sæöldu-geim,
og öfluðu fjármuna og frama,
og færðu það ættingjum heim.

En lífið er breytingum bundið,
á burt er nú hugdirfð og þor,
og enginn sem fæst til að feta,
í feðranna gullvægu spor.

Í draummóki húka menn heima
og hafa ekki á kostunum val,
en hópast um kirkjunnar kreddu
og klerkanna trúmála gal.

Nú horfi ég þögull á hafið,
mér hafgolan líður um kinn,
en seglbera sigurs og frægðar
ég sé þar nú hvergi né finn.

---

## Rís upp mín þjóð.

Rís upp mín þjóð og syng nú sigur ljóð;
lát söngva þína óma um fjöll og dali.
Nú töfra-hljómar vekja vorsins óð,
nú vakna dísir upp við hamrasali.
‖: Nú átt þú, Ísland, efni í fagran brag
elfur og fossar syngja undir lag :‖
Heim, komið heim, allir heim,
heim til þín, vort ættarland!

# Morgun.

Hér vakna' ég við ómana af indælum söngvum,
sem ástkæra heiðlóan kveður hér löngum.
Og enginn nær þýðari stilling í strengi,
— þeir stíga ekki hátt, en þeir hljóma svo lengi.

Nú bergmálar dýrðin um dalina og fjöllin,
og daggperlur glitra um blómskrýddan völlinn,
en tíbráin leikur á víkum og vogum,
og vorsólin gengur að austan með logum.

# Vorið.

Þá vorið kemur vaknar rós,
en vetrar hverfur hríð,
þá fagurt himins logar ljós
um ljúfa sumartíð.

Þá blómgast hrísla í brattri hlíð,
þá bunar lækur tær,
þá ómar sönglist ástar-þýð,
þá andar lífsins blær.

Það rekur hrygð úr hjarta manns
en hefir von á flug,
og gefur björg til búa lands
og bændum þrótt og dug.

## Samreið.

Gaman er á fáki fráum
ferðast upp í hlíð,
skoða vötn og skóga,
skreytta blómum móa,
um sæla sumar tíð.

Sólin gyllir hnjúka og hálsa
heiðan sumardag,
þiðnar fönn úr fjöllum,
frelsið hlær við öllum.
Bindum bræðralag.

Förum hægan bróðir, bíddu,
brött og grýtt er leið.
Bráðum kemur blettur
breiður, rennisléttur.
Skellum þar á skeið.

Blakkur minn er beztur allra.
Bara líttu á!
Skarpt með hófa sköllum
skeiðar fram úr öllum,
fimur fótum á.

Hleipir brúnum, hringar makka
hrausti klárinn minn,
sterka tauma teygir,
traustar stengur beygir;
engan frægri ég finn.

Reið nú stillum, hvílum klára,
  kátir tölumst við;
glösum glatt vér klyngjum,
gleðilag við syngjum
að frjálsra sveina sið.

Gaman er á fáki fráum
  ferðast upp í hlíð,
skoða vötn og skóga,
skreytta blómum móa,
um sæla sumar tíð.

---

## Í hríðarveðri.

Nú er úti frost og fjúk,
fannir slúta í giljum,
enginn skúti skýlir búk,
skatnar lúta byljum.

Klaka röndin kleprar strönd,
kólnar önd í vetur,
haf og lönd í heljar bönd
hríðar vöndur setur.



# AÐVÖRUN

til landans sem er nýkominn til Winnipeg.

---

Ef gætirðu ei hófs með að ganga o'ní bæ,
og gjálífis- hlaupa' út í -sollinn,
þá fellurðu á endanum flatur sem hræ,
í forsmánar, hyldýpis pollinn.

Því "Real Estate"-maðurinn rýjir þig strax,
en ráðvendnin hleypur í felur;
með allskonar prettvísi leitar hann lags,
og ljúgandi kaupir og selur.

En hann tekur löngum með hógværð til máls
og hagnaði af sérhverju lofar,
en fyrr en að leiðin er löbbuð til hálfs
er lýgin hans turnunum ofar.

Og hvert sem hann leiðir þig, út eða inn,
mun ógæfan marka þér sporin,
og ef að þú færð honum fjársjóðinn þinn,
er feitin að hundstungu borin.

Því lögin í Canada gefa honum grið,
þó grípi hann ófrómur dalinn,
og það virðist orðið að algengum sið,
og—ágætis mannkostur talinn.

Já, aumt er að horfa á þá iðandi kös,
sem eigrar um strætin í hrönnum,
því hvar sem við förum er allsstaðar ös,
af allskonar landráðamönnum.

Þeir snuðrandi ráfa eins og refir í mó,
með ránshug á meðan þeir hjara,
og læsa þá bezt sinni kaldráðu kló,
er krókótta veginn þeir fara.

En fyrst að þeir ryðja þann farveg til auðs,
er fjöldanum auðráðin gáta,
þeir duga ekki að afla síns daglega brauðs
með drengskap á ærlegan máta.

Því letin og sællífið sækir þá heim
og svallþrunginn stór-borgar kliður,
og staflausir veltast í strauminum þeim,
sem steypist til lastanna niður.

Og ekki er að sjá að þeir iðrist þess baun,
þó ýmsir á svikunum kenni,
en illt er ef fátækir rata í þá raun
að reyna þau fjárglæfra-menni.

Ef óhapp þeim kemur á fallandi fót,
og feigðar mörk vofa yfir kinnum,
er samvizkan vís til að mæla sér mót,
við mannhrökin einstöku sinnum.

Menn vita það ekki hvort gatan er greið,
sem gengin er handan við sæinn.
Og hvað mun að eilífu lýsa þeim leið,
sem lævísir entu hér daginn?

Við þektum svo margan sem magnþrota lá
við maurana fyr en hann varði,
og iðrandi, tárvotum augunum þá
í eilífðar náttmyrkrið starði.

Og ef að þú kemur hér fleygur og frjáls
úr fjallendi norðan úr höfum,
þá láttu' ekki svikarann hengja á þinn háls
neinn hlekkinn úr þjóðlífsins klöfum.

## Augnabliks þrá.

Ég minnist þín svanni þá sólin upp rís,
frá sædjúpi fögur og skær;
á vængjum að flytjast í faðm þinn ég kýs.
Ó, hve farsæll ég væri þá, mær.

Og fengi ég öðlast það ástríka hnoss,
sem armlögin þín geta veitt,
og teigað af vörum þér koss eftir koss,
væri kvöl minni í alsælu breytt.

# Úr bréfi.

Komdu nú sæll, ég klóra þér línu,
kærasti vinur, að gamni mínu,
bara svo ég sýni þér
að samt ég enn á lífi er.
Héðan er heldur fátt að frétta;
fréttirnar helztu eru þetta:
Hér hefir gengið veiki í vetur;
veinar nú hver sem betur getur.
Höldar kalla það heilasótt.
Hún hefir gengið dag og nótt.
Margir hafa mat ei þegið;
mikið er þá af flestum dregið.
Kveða við stunur, hósti og hnerri;
ég held að sá djöfull aldrei þverri.
Svo hafa margir lífið látið,
og lifandi beiskum tárum grátið.
Enginn veit kvar það kann að lenda,
kannske það taki aldrei enda.
Drepist nú allir, þá dey ég líka.
Drottinn veiti mér gleði slíka!
Því upp til himins ég óðar færi
og aleigu mína í poka bæri.
Í kaupavinnu hjá guði ég gengi,—
því guð hefir marga röska drengi —
Þar mundi ég vinna verkin stór
og verða skipað sæti í kór;
svo mundi guð mér gefa hrund
og gifta mig bara á sömu stund.

Þar mundi ei skorta vistir né vín,
væri þá læknuð mæða og pín.
Þá væri ég sæll. Ég segi ei meira.
Svo muntu ei vilja hlusta á fleira.

---

## Grafskrift

**eftir mann sem kallaður var Guðmundur Ralli**
**— og lifir enn. —**

---

Hann lagðist í fyllirí, dáðleysi og drasl
og dugði ekki neitt til að vinna,
svo lifði hann alt af við leiðindi og basl,
og langaði sífelt í "pinna".

Hann bað ekki um lánið sem brúðguminn fær,
og batt aldrei hjúskapar hnútinn,
og átti ekki kærustur aðrar en þær,
sem ölföngum spýttu upp um stútinn.

Á endanum staurblindur féll 'ann á fold
og fáir af söknuði grétu 'ann,
en presturinn kastaði mold yfir mold,
og maðkarnir byrjuðu að éta 'ann.

Nú hvílast í gröfinni Guðmundar bein,—
þeir gátu ekki um lát hans í blöðum,—
en þó býr nú sálin 'ans heilög og hrein
á himnanna veitingastöðum.

## Harmagrátur Stefaníu.

Við höfum aldrei séð hann Sigstein tárast,
en sælu notið gegnum brosið hans,
og margri heiðurs jómfrú svíður sárast
að sigra ekki hjarta þessa manns;
en þó að nú sé hart við afl að etja
mun ástin síðar mýkja kappans lund,
því marg oft hefir fallið frægri hetja
að fótum meyjar — úti' í grænum lund.

Og þegar vorið sendir sólskins strauma,
og svalalindin fær sér geisla bað,
þá hvílir ást og þrá með dýra drauma
und dularblæju,— hjörtun vita það.—
Ó, ef þú, vinur, þektir óskir allar,
sem elur hugur minn og ber til þín,
á kvöldin þegar sól af suðri hallar,
þá svifir þú á vængjum heim til mín.

## Til Brúðarinnar.

Þú varst lengi búin að bíða,
bjargarlaus og full af kvíða,
að þú fengir engann mann.
Nú þarftu' ekki að kvarta og klaga,
Kolbeinn mun um sína daga
hita þér um hjartarann.

## Nokkrir piparsveinar
### í Winnipeg hlaupárið 1912.

---

Einmana Þórarinn þreytir sitt skeið,
með þolgæði og stillingu á erfiðri leið,
með gatslitnar vonir í öll þessi ár,
með útréttan faðminn og tárvotar brár.

En svo kemur Lúðvík og ljóshærði Nikk,
sem læðast á kvöldin með spanaðan gikk;
en því verður ganglóan stundum svo stygg,
og stansar ei fyr en hún veltur um hrygg.

Og vesalings Gísli með grátstaf í kverk,
og greyið hann Stefán með löngunarverk;
en þeir hafa krossfest sinn kynferðis vott,
þó kvenfólki finnist það hreint ekki gott.

En Guðmundur bóksali bjargarlaus stóð,
sem brennandi eldstólpi í logandi glóð,
því heitmeyja-skarinn bar eldsneytið að,
en ástin í karlinum stóðst ekki það.

Og Sigurður Vilhjálmsson lærði þá list
að leika við prinsessu í Danmörku fyrst,
en síðan 'ann flutti hér vestur um ver,
þær vilja' ekki hafa 'ann að leikjum með sér.

Já, því er nú karlinum lífið svo leitt,
hann leitar og biður, en fær ekki neitt,

en þegar að kvöldar og dagsljósið dvín,
þá dreymir hann allskonar hræfugla og svín.

Svo þekkist hann Hjálmur með stunur og sting,
sem stjáklaði alla tíð veinandi í kring;
en samt gat hann varast þann freistinga fans,
sem forsjónin dregur að tilhneiging manns.

En Andrés með nútíðar, nýgræðings snið
er neitað á kvöldin um værðir og frið,
því kitlandi innvortis ástríkis-sótt
hélt öndinni í spenningi langt fram á nótt.

En til þess að ryðja honum Böðvari braut
í baráttu lífsins og daglegri þraut,
er gustuk að einhver hin miðaldra mey
að manninum snéri og segði ekki nei.

En Jóhann með gleraugun staðfastur stóð,
og starði eins og munkur á gjafvaxta fljóð;
en náttúrulögmálið leitaði þá
á lífæðar mannsins og taugar og þrá.

Og enn eru Jónar um hundrað í hóp,
sem herrann í gáleysi af tilviljun skóp;
en þeir bera einskonar umskiftings keim,
svo aumingja stúlkunum hryllir við þeim.

Hvert einasta hlaupár sem ber oss á braut,
slær bjartari geislum í einbúans skaut,

því frelsið og verzlunar viðskiftin ná
svo voldugum tökum á stúlkunum þá.

---

Og Eaton, sem verzlar með allskonar dót,
mun ógiftu stúlkunum gefa undir fót;
því hann hefir auglýst þá alla til sals
með afslætti í febrúar,— 300 tals.

Og hver sem vill ná sér í nafnfrægan mann
er neydd til að flýta sín morguninn þann,
því "Göllurnar" vakta hvað "barginið" bar,
og berjast um landann við "Countirinn" þar.

Og hver sem er íslenzk og ógift þann dag
mun efalaust tryggja sinn framtíðar hag.
því aldrei var mannval til markaðar leitt
svo mannkostum búið, eins sællegt og feitt.

Og svo þessar gömlu, sem gráta sitt skart,
sem guð hafði í öndverðu synjað um margt,
þær hafa rétt eins og fínustu frúr
að fara til Eatons og velja þar úr.

---

## Nesti.

Kaupum allir egg og mjólk —
svo enginn þarfnist hnífs, —
því við erum allir ferðafólk
á ferð til eilífs lífs.

## Sveitaþorpið Lundar.

Alt af finst mér líflegt hér á Lundar,
leika sér um strætin Vatnahundar,
svo er þessi kúabjöllu kliður
á kvöldin þegar sólin gengur niður.

Alla daga öskrar hér í bílum,
allir ,,búskar'' þekjast svörtum dílum;
á sunnudögum margoft eftir messu,
maður getur tekið eftir þessu.

Menn vita nú að þetta' er þjóðar siður,
og þá er líka altaf mestur friður,
og ilmurinn svo angandi frá trjánum,
og yndislegt að velta sér á hnjánum.

Hér má líta fjarska margt af meyjum,
og margar ganga á flegnum silkitreyjum,
og valsa svo með brjóst og bera arma,
en blíðu ljósi slær um enni og hvarma.

Ein er hér þó allra kvenna fríðust,
ein er hér þó saklausust og blíðust,
ein, sem vekur allra sveina hylli,
ein, sem brosir svefns og vöku milli.

Hér er líka piparsveina sægur,
sem um alla jörð er orðinn frægur,
og af þeim gengur helmingurinn haltur,
og herrann veit, að þá er maður valtur.

Og margir hafa fækkað á því fótum,
að fara á eftir þessum lundar-snótum.
Þær hvísla bara vinlegt orð í eyra,
eitt augnablik, en — svo fæst ekkert meira.

## Piparmeyjar-harmur.

Alt af gengur Þorbjörg þreytt
og þjökuð undir sorginni,
því aldrei getur hún eignast neitt
"outfit" hér í borginni.

Eflaust mundi ganga greitt
ef Gísli reyndi að hugg'ana,
hann hefir marga löndu leitt
úr ljósinu' út í skuggana.

Svo hafa margir fundið frið
í forsælunni' í "pörkunum",
legið þar og leikið við
lífið undir björkunum.

## Rakarinn.

Páll í skjóli herra Hans,
hefir tól í standi,
lafir á stóli listamanns
lítill ólar-fjandi.

## Út í bláinn.

**Maður nokkur kom á samkomu og bauðst til að "bulla út í bláinn, fólki til skemtunar".**

---

Hann stóð hér með krosslagðar hendur og hló,
og horfði eins og flón upp í skjáinn;
hann vissi hvað helgast í huga sér bjó,
en — hann átti að vella' út í bláinn.

Svo leit 'ann hér óspiltan ungmeyja fans
með augu sem blöktu' eins og stráin;
þá titruðu strengir í hörpunni hans,
en — hann átti að vella' út í bláinn.

Já, vesalings piltarnir finna svo fátt
sem flestum er heitasta þráin;
en nú mátti 'ann alls ekki hafa það hátt
því — hann átti að vella' út í bláinn.

Þær andlegu holskeflur keyrðu 'ann í kaf
í kolgrænan, hyldjúpan sjáinn,
sem mynduðust háfleigum hugsunum af,
því — hann átti að vella' út í bláinn.

Svo fann hann að ylgeisli vorsólar var
að verma hér hálf-rotinn náinn;
sú meðvitund hrylling að huganum bar,
en — hann átti að vella' út í bláinn.

Og svitann af enni sér einatt hann strauk,
en alt af varð hvassari bráin;
svo opnaði hann munninn og úr honum rauk
sú andskotans vella' út í bláinn.

---

## Miss Alftavatn

**í hugleiðingum eftir dansinn.**

Ef augu mættust mín og hans
í munarblíðum lofnar-dans,
þá undir fögrum friðarboga,
mér fanst ég standa í einum loga.

Og aldrei hefir halur neinn
mig hrifið eins og þessi sveinn;
og meðan hjarta í barmi bærist
við brosið hans ég endurnærist.

---

## Billiardsalurinn

**og þrír forstöðumenn hans.**

Það er mikil þjóðar smán
þetta refa setur:
stritast hér við stuld og rán
Stefán, Árni og Pétur.

# Matsöluhúsið.
(Wevel Café)

---

Gekk ég niður Sargent seint á kveldi,
sólin var að hníga í dýrðar-veldi,
aftanroðinn gylti háar hallir,
hljóðir stóðu borgarmúrar allir.

Ró og friður hvíldi yfir öllu,
ekki heyrðist hringla í neinni bjöllu,
vagna skrölt og ys og þys var þagnað,
af þreyttum lýði hvíldinni var fagnað.

Inn á Wevel gekk ég svona í gamni,—
glatt var oft á hjalla í þeim ranni.—
Þar var breytt, og ekkert eins og forðum,
allir sátu hljóðir yfir borðum.

Fram um sal ég augum óðar rendi;
að eins leit ég fáa, sem ég kendi.
Inst við gaflinn Tryggva sá ég sitja
og seiga kjötsteik ofan í sig brytja.

Undarlega var hann súr á svipinn,
sýndist mér hann heljartökum gripinn;
áfram gekk ég svona hægt og hljóður,
heilsaði blítt, og sagði: ,,Vinur góður!

Hvað er það, sem veldur þessum voða?
Veikum er þó alt af náð til boða.
Þó er eins og einhver píslar pína
þoka dragi yfir sálu þína.

Þú, sem varst svo kómiskur og kýminn,
kvennhollur og liðugur og glíminn.
Raun er mér að sjá þig svona gugginn.
Segðu mér nú: af hverju ertu hnugginn?"

Augum stórum upp hann leit í hasti,
augabrýrnar voru á hendings-kasti;
hendi svo í lófann á mér lagði,
liðkaði á sér kverkarnar og sagði:

„Nú er flest sem veldur manni mæðu,
mað' guðs — sko, líttu á þessa fæðu!
Stofumærin stendur eins og þvara,
steikin hrá — og Gerða er að fara.

Hér var löngum gleði meðal gesta,
griðastaður ritstjóra og presta,
Íslendingum oftast gott til fanga,
endurnæring fyrir þreytta og svanga.

Nú eru okkar beztu dagar búnir,
blaðamenn og prestar allir flúnir,
einn ég sit, en farinn er minn friður,—
fjandinn er að toga Wevel niður".

## Staka.

Þér var löngum létt um vik,
og laginn varstu, greyið;
en þú hefir ótal asnastryk
um æfi þína dregið.

## Ég syndga mest á sunnudögum.

Ég syndga mest á sunnudögum,
svo er varið mínum högum
að aldrei hlýði ég landsins lögum,
sem lúta að því að hugsa rétt;
því hugurinn er á harða sprett,
í leit að öllum ástasögum,
sem ég get séð og fundið,
og sálu minni blómsveig geta bundið.

Ég fékk ungur ást á sprundum;
öllum mínum helgistundum
varði ég á þeim vinafundum
vorsins nætur út og inn.
Ó, sú gleði, drottinn minn!
Vafinn silkimjúkum mundum
mér var ljúft að heyra —
fríðrar snótar ástarmál við eyra.

Oft um miðjar messutíðir,
meðan fólk á prestinn hlýðir,
leika um mig ljúfir, þýðir
lífsins ásta-blossar —
þegar ungfrú sér í sæti hossar.
Þegar fólkið svo um síðir
synda-yðran tjáir,
bið ég þeirra bæna er sál mín þráir.

Lít ég svanhvít brjóstin bærast,
bros á vör og kinnar færast,

allar taugar endurnærast
í mér við þá dýrðar sýn,
elsku hjartans, ástin mín!
Það sem meyju og manni er kærast
má hér ekki greina,—
ástin hvílir oft á milli steina.

Hvar sem yfir fold er farið,
flestum er nú svona varið;
því er heldur hart á barið,
hér í þessu landi,
að allir verða að vera í hjónabandi.
Karlmenn ættu að klippa af skarið,
krefjast bóta á högum,
svo allir fengju að faðmast samkvæmt lögum.

---

## Kvenfélagið.

Það var indæl aftanstund
eitt sinn hérna um daginn.
Kvenfélagið fór á fund
fyrir vestan bæinn.

Frúrnar allar fjær og nær
fluttu í töskum vitið.
Í fjóra tíma þögðu þær,
og þá var fundi slitið.

## Um stjórnarsvikin í Manitcba 1913—1914.

(Samtal)

*A.* Við skulum bera höfuð hátt —
hátt í Roblins stjórnar nafni.
Til að geta dansað dátt
dugar bezt að leika flátt;
svo eru skot í allri átt,
einhver þó að steli og safni.
Við skulum bera höfuð hátt —
hátt í Roblins stjórnar nafni.

*B.* Þið hafið tapað vind' úr voð,
vesalmenni og bófar.
Hvar er ykkar sterka stoð,
stjórnar-prýði og vara-goð?
Það fer alt í sama soð;
svikamylla og þjófar.
Þið hafið tapað vind' úr voð,
vesalmenni og bófar.

*A.* Það er flestu óhætt enn;
ekkert verður sannað.
Stjórnin hefir mæta menn,
Montague er sleipur enn,
það mun tíminn sína, senn
svona þegar alt er kannað.
Það er flestu óhætt enn;
ekkert verður sannað.

*B.* Þið skuluð ekki hafa hátt,
Horvood þó að skæli.
Þeir eiga fleiri býsna bágt,
bíður njósn við hverja gátt;
það hefir enn þá fundist fátt,
frá því refa-bæli.
Þið skuluð ekki hafa hátt,
Horvood þó að skæli.

---

## Veggjalúsin.

Und koddanum bíður hún blíð og rjóð
uns blundur á hvarm mér sígur,
svo læðist hún til mín létt og hljóð;
þá lifnar og örfast mitt hjarta blóð
og örar' um æðarnar smígur.

Svo legst hún að vanga mér værť og rótt,
og viðkvæmu fingrunum beitir;
og hún er mín draumsjón um dimma nótt,
þá dagur er liðinn og alt er hljótt,
og sál minni sælu veitir.

En svo þegar árdags röðull rís,
þá rís ég með sól á fætur.
Þá hoppar hún burt, mín draumadís,
og dvelur í hulins-Paradís,
en hlakkar til næstu nætur.

## Frúin.

Frú Stefanía leikkona kom frá Íslandi og spann gull á leiksviðinu í leiknum „Kynnahvolssystur".

---

Komin yfir kaldan mar
kynja-fögrum listum búin,
Íslands sómi er og var,
andlegt gull í sálu bar,
enginn hefir hér né þar
hjörtun vakið eins og frúin.
Komin yfir kaldan mar
kynja-fögrum listum búin.

Steyptust niður á „Station"
straumaföll af Íslendingum.
Þar var Björn og þar var Jón,
þar voru spekingar og flón;
allir vildu sjá þá sjón;
svo var fjöldi að hoppa í kringum.
Steyptust niður á „Station"
straumaföll af Íslendingum.

Til að fagna góðum gest'
gafst hér Íslendingum færi;
en vitanlega varðar mest
að viðtökurnar takist bezt;
nú var von á næstu lest,
nú var gónt — já, þó það væri.
Til að fagna góðum gest'
gafst hér Íslendingum færi.

Úr föðurgarði frúin bar
fjölda marga dýra muni;
aldinn rokkur einn var þar,
á hann gullið spunnið var.
Vestur-íslenzkt aldarfar
alt af kitlar slíkur spuni.
Úr föðurgarði frúin þar
fjölda marga dýra muni.

Íslendingar allir hér
óðir vildu bera rokkinn;
hver einn reyndi að sjá að sér;
svona gesti lotning ber.
Hvar sem heiðurs frúin fer
fylgir henni litli hnokkinn.
Íslendingar allir hér
óðir vildu bera rokkinn.

---

## Sigling lífsins.

Þó þú brjótir skip á skerjum,
skolist hrönn og týnir verjum,
þú mátt ekki láta linna
lífsþrá dýrstu vona þinna.

# Mistök.

— Feðranna dáðleysi er barnanna böl
og bölvun í nútíð er framtíðar kvöl.
—*St Th.*

Ef húsbóndinn ætlar að aga
með ávítun soninn til bóta,
þá hleypur kálfur að klaga,
en konan og móðirin hóta:

Ef faðirinn hafi ekki hægan,
þá hrópi þær strax í fóninn
á einhvern slunginn og slægan
og sleipan lögregluþjóninn.

Og húsfreyja í haukana setur,
og hnefana skekur við karlinn:
„Þú ættir að passa þig, Pétur,
þú pöróttur þóttir og svallinn.

Þú ættir að muna svo mikið,
þó mannorð þitt daglega skaðir,
að þú hefir sæmd þína svikið.—
Ja, sveiattan, því líkur faðir!

Þig langar víst sjálfan í sukkið,
þó samvizkan bæli þig inni,
og því hefir drengurinn drukkið
þær dreggjar frá ættinni þinni".

En Pétur var seigur í svörum,
og sótrauður varð hann á litinn;
þá var sá friður á förum,
sem frelsaði skilningarvitin.

Því nú var hann rjúkandi reiður,
og rauk eins og elding um pallinn;
en strákur í gáttinni gleiður
leit glottandi framan í karlinn.

Svo skiftust þeir skömmunum við borðið,
en skrattinn,— hann sat þar á gæjum.
Já, svona er nú uppeldið orðið
í öllum sveitum og bæjum!

## Þrábeiðni.

Óttalegar eru þær
ástríðurnar þínar;
þær eru eins og kreptar klær
kringum vonir mínar.

## Letinginn.

Illa þjónar landi og lýð,
liggur á prjóna sessum.
Andlits-sjónin ekki fríð,
er á dóna þessum.

## Refur í sauðargæru.

Ég þekki mann, sem heilsar ávalt eins,
með unaðs-bros á vör, sem alla kætir;
hann tekur hattinn ofan undir eins
í auðmýkt fyrir hverjum sem hann mætir.
Leggur sæta silkitungu að eyra,
og svarar eins og hver vill fá að heyra.

En ef þú lítur fast í augun inn,
þá áttu víst að sjá hans gleði skerta;
hann snýr þá undan, kafrjóður á kinn,—
þú komst við streng, sem ekki mátti snerta.
Því — bak við mannsins ytra útlit sefur
í illum draumi slunginn bragða-refur.

Og heyr þú, vinur, vel þú aldrei skjól
til varnar þér, í neyð hjá slíkum herra;
það gæti dregið flóka fyrir sól,
þér findist kannské brosið milda þverra;
því hann er alt af viss að vega að baki
og varpa þér til grunns á þrælataki.

## Hundgáin.

Úti við gangstétt reifst hundur við hund,
með helvítis ógurleg læti,
og þar stóð Jón Einarsson þéttur í lund,
og þokaði ei hendi eða fæti.

## Við burtför Níelsar.

Sumar meiga sárt um binda,
þær sigla um strætin milli vinda,
að sjá hann Níels bagga binda,
og bera þá niður á ,,Station'';
það er heldur svipleg sjón.
Hann sem alt af lét sér linda
að lifa hér í næði,
ætlar nú að stökkva burt í bræði.

Enginn þessu veit hvað veldur,—
vinir mannsins ekki heldur,—
því hulins-öflum ofurseldur
er hans sálarkraftur.
En sumir halda að hann komi aftur.
Af meyja fjölda ástar-eldur
er honum hér kyntur;
því er slæmt ef dettur í hann dyntur.

## Afleiðing bannlaganna.

Innan-þurkur og utan-bleyta
eru að gjöra fólkið ,,domm''.
Hvað á að fara, hvert á að leita,
hvar er hægt að ná í romm?

## Byrjun á ljóðabréfi.

Skáldið, til að stytta stund,
stuðla falla lætur;
það hefir stundum létt mér lund
langar vökunætur.

Níels haltrar hér um gólf,
hefir á öllu gætur;
kemst í rúmið klukkan tólf,
klukkan tíu á fætur.

Alt af klæddur eins og „lorð",
andlit smurt og þvegið,
kaupir hér af Kínum „borð",
kvíðafullur, greyið.

Eirðarlaus um aftanstund,
upp úr svefni veinar.
Sjaldan geyma glaða lund
gamlir piparsveinar.

## Staka.

Ef þig hendir eitthvert slys,
alt af læknar sopinn.
Gakk þú aldrei góðs á mis,
Gerða stendur opin.

## Goodtemplarar á skemtiferð
til Gimli 1911.

---

Tilefnið: — Hjaltalín kvað lýsing af Gimli:
„Þar eru ær og kýr á beit,
og akrar á bak við skóga".

Þá Goodtemplarinn landið leit
lifnaði margra sinni;
því gimbrar allar gengu á beit,
en Gimli hrútar inni.

Og Hjaltalín með sinni sveit
svalaði lönguninni;
því gimbrar allar gengu á beit,
en Gimli hrútar inni.

Og Gunnlaugur í garðinn . . . . .,
gremja varð í sinni;
því gimbrar allar gengu á beit,
en Gimli hrútar inni.

En litli Jói í laufgum reit,
lapti úr skyrfötunni;
en gimbrar allar gengu á beit,
en Gimli hrútar inni.

Helgi gekk á gefið heit,
glaptist honum minni;
því gimbrar allar gengu á beit,
en Gimli hrútar inni.

## Lambið.

Höf. var beðinn að þýða eftirfarandi erindi úr ensku:

Mary had a little lamb,
its fleece was white as snow,
and everywhere that Mary went
the lamb was sure to go.

Þýðing:

María átti lítið lamb,
sem ljóst á ullu var,
og hvert sem María lagði leið,
var lambið komið þar.

Viðauki:

Mrs. Sveinsson sat um nótt
sveitt að þýða brag,
ljósið hennar logaði langt fram á dag.
Lagði geisla yfir grund,
grunsamt þetta var.
En hvar sem frúin lagði leið
var lamb komið þar.

## Winnipeg.

Í Winnipeg má vara sig á prettum,
því varmenn lifa þar í öllum stéttum;
með lýgi og svikum láni hver er rúinn;
að ljúga sér út dollar—það er trúin.

## Manga.

Hún Manga fór að dansa hérna um daginn;
dæmalaust fór vel á henni kraginn;
hún fór í fína kjólinn;
þá fékk ég hjartaslátt.
En blessuð sumarsólin
sigldi ofur lágt.
Skein á alt,
skein á voga og tanga,
skein á alt,
skein á brjóst og vanga,
skein á alt.

## Kosningavísur.

**Bardaginn stóð milli tveggja heiðursmanna.**

Þeir sem Albert fylgdu á flot
fyltust sulli og meinum,
flestir af þeim féllu í rot
fyrir Skúla einum.

En Albert stóð fyrir utan garð,
enginn vildi sjá hann.—
Eins og lítið lambasparð
litu flestir á hann.

Nú er fokið flest í skjól,
flúin allur líður.
Nú má skríða klerk í kjól,
kirkjan tóma bíður.

# Koppa-bragur.

---

Mér er alveg sama þó ég segi frá því hátt,
þær sögur hafa gengið, þó þær reyndar fari lágt,
aðeinn af þessum „Solidated farmers" hafi „fitt",
hann fékk það hérna um daginn,
þegar leikið var og — hitt.

Það vildi svona ákaflega undarlega til,
hann Ólafur frá Winnipeg
kom hér með leik og spil;
og til að geta sýnt hann eins og sæmdi vorri þjóð,
hann sagðist þurfa að lána hérna
áhöld mörg og góð.

Hann vissi bezt hvað leikendurna
vanhagaði' um hér,
sem vitanlega er ýmislegt, sem fjöldinn aldrei sér;
og þar á meðal næturgögn að nota þetta kvöld,
því norðangolan reynist hér svo hættulega köld.

Og formaður hjá „Solidated" sagðist skyldi ljá
frá „settum", þar við verzlunina, rósakoppa þrjá,
en með því eina skilyrði, þeir skemdust ekki þó,
því skrautið væri búið til hjá
Kínverjum — „you know".

„Þeir bera", sagði 'ann,
„langt af öllu listaverki í heim,
og leikendurnir allir geta speglað sig í þeim.

Þeir kosta líka þrettán-sinnum-þrettán dali hver,
og það er meira en nokkur hefir borgað fyrir gler.

Ég skora á þig í mínu nafni og Kína-keisarans,
að kasta ekki ábyrgð þinni
á hendur nokkurs manns''.
Og Ólafur með spekingssvip og handabandi hét,
að hafa gát á þjófunum og veiða þá í net.

En svo kom þetta makalausa, minnisstæða kvöld,
sem mönnum aldrei gleymist,sem að lifa þessa öld;
því leikendurnir sýndu okkur hulins-heima spil,
sem ,,hippnotæsaði'' alla sem að gátu fundið til.

Og seinna þegar Ólafur og allir voru á burt,
um alla sali leitað var að koppunum, og spurt.
Þeir skrifuðu til Winnipeg og víðar út um heim;
en vikur liðu og engin maður frétti neitt af þeim.

En allir bæir hafa nú sín eigin þarfaþing,
og því á Lundar ,,Telegram'',
sem hleypur sjálft í kring.
Það segir allar fréttir, sem að eiga að liggja lágt,
og leggur sínar víðu hlustir upp við hverja gátt.

Í fyrra kvöld var ,,Telegram'' á tölti úti' í bæ,
og tunglið lagði bleikar slæður yfir lönd og sæ;
en næturkyrðin þögul hafði sveipað sinni ró
um syndum spiltan heiminn,
til að boða hvíld og fró.

En heyra mátti úr fjarlægð
einhvern undarlegan klið,
og óðar lagði „Telegram" sín hlustarfæri við.—
Og hljóðið kom frá lyfjabúri læknisins á „eitt",
og líktist því að glösum væri
klingt með — ekki neitt.

Þá hoppaði Lundar „Telegram"
á tánum eins og mús,
og til að geta rannsakað og skoðað þetta hús,
það læddist upp að dyrunum
og gægðist inn um gat
þar Gabríel með dýrgripina augafulla sat.

Og næsta morgun „Solidated" fengu þessa frétt,
og formaðurinn, berhöfðaður, hlóp í einum sprett,
og týnda sjóðinn aftur heim í búðarglugga bar,
og blessuð sólin skín nú glatt á dýrgripina þar.

---

## Stökur.

---

Margir snillings nafnbót ná,
naskir fylla í bletti;
og hlaða gylling utan á
apa og villiketti.

---

Ég yrði smeykur, mæta mær,
að mæta þér í grandleysi;
þú ert varla ferðafær
fyrir þínu tannleysi.

## Inngangsorð

fyrir „Fonninu", blaði gefið út á Lundar, Manitoba,
í október 1921.

---

Vér horfum á fiðrildi og fuglanna mergð,
sem flögrar um löndin til bjargar.
Og náttúran öll er á flugi og ferð
með framsóknir stórar og margar.
En maðurinn réttir út hikandi hönd,
og horfir með kvíða á framtíðar-lönd.

Vér finnum í bænum er brýnasta þörf
á blaði, sem deyfðinni klórar;
vor framsóknar-þrá er svo dæmalaust djörf,
og draumsjónir andans svo stórar.
Og þjóðræknis tilþrifin tryggja vorn sess,
með tilstilli ritstjóra, læknis og prests.

Vér sjáum að fólk er á lífinu leitt,
sem labbar hér þögult um bæinn.
Og til eru menn, sem að trúa ekki á neitt,
og treysta ekki á ljósið og daginn.
Oss langar að kveða svo kröftugan brag,
að karlarnir þekki sinn upprisudag.

---

## Skrifað í vísnabók.

Geng ég inn af gömlum vana,
gott er að sækja vinafund.
Elsku, hjartans, sæta Sjana,
sittu hjá mér litla stund.
En hvað þú ert ung og fögur!
Ó, hvað þú átt hreimþýtt mál!
Ef þú lest mér ljóð og sögur
lyftir yfir minni sál.

## Stúkan Helka Nr. 33.

(Minni)

---

Ef við lítum nú aftur í árin,
yfir ekknanna og barnanna tárin,
sem að lauguðu legstaði og hreysi,
yfir líknar- og munaðar-leysi,
meðan ofdrykkju-öld var á geysi,

þá er breyting til batnaðar fengin;
því skal braut þín að takmarki gengin,
þar til löggjöf og leiðtogar þjóða
bera lán til að meta þann gróða,
sem að þú hefir geymt þér til góða.

Hér skal unnið í eining og friði;
hér skal alla tíð stemt að því miði,
gegnum beljandi brimröst að landi:
til að bjarga þeim veika frá strandi.
Það er hvorttveggja: vegsemd og vandi.

Ég sé ljós yfir landinu skína,
sem að leiftrar um minningu þína.
Þú átt blíðasta brosið hjá svanna;
þú varst bjargvættur táldregnra manna;
þú vanst alt af að sigri þess sanna.

Hvað er líf þinna líðandi daga?
Það er líknar- og menningar-saga,
sem að hvetur þá óbornu og ungu

til að unna hér feðranna tungu,
sem að íslenzku svanirnir sungu.

Meðan hnígur að sædjúpi sunna,
meðan sveinarnir heitmeyjum unna,
skulu menn þeir er vígi þín verja
bera vopnin, og trygðir þér sverja,
og að Bakkusar bölvargi herja.

Sitji, Hekla, þitt hámark að völdum
meðal heimsbúa á komandi öldum,
þá mun heilbrigði í hugsun og tali
skipa hásæti um mannlífsins sali;
þá mun heiðríkt um háfjöll og dali.

---

## Stúkan Skuld.

27. Sept. 1911.

---

Þó oft sé í kringum oss dapurt og dimt
og daglega andstreymið nístandi grimt,
þá blikar af stjörnu, sem framundan fer,
svo formaður, hafviltur, ströndina sér.

Og, Skuld, þú ert stjarnan sem leiðir í land,
og lýst hefir mörgum sem ætluðu í strand
í æðandi stormi af ólgandi dröfn,
með óskertum sigri í friðsæla höfn.

Og hvað sem að framtíðin leiðir í ljós,
fá leiðtogar kærleikans verðskuldað hrós;
því þeir hafa göfgað og miklað hvern mann,
sem menning er vaxinn og siðferði ann.

Sjá, brosið um varir og kafrjóða kinn,
sjá, kraftinn og ylinn sem streymir hér inn.
Og það eru kærleikans bróðurleg bönd,
sem bjóða okkur samhygð og vinhlýja hönd.

Þó blómskrúðið falli, þó fölni hver eik,
þó fjólan í dalnum sé stirnuð og bleik;
þá eigum við sólskin og sumarið hér
í svartasta skamdegi í fanginu á þér.

Og það er oss alla tíð ánægju stund,
að eiga hér heima og sækja þinn fund;
og meðan að nokkur á norrænan kraft
mun nafn þitt og starfsemi í virðingu haft.

---

## Ungmennafélagið.

Hér er svo margt, sem eykur manni yndi,
og örfar smæstu hjartans blómstur fræ;
og hér er eins og leiki alt í lyndi,
því lífið sendir til vor hlýrri blæ.
Við finnum öll að það er þessi ylur,
sem þrótt og líf í sálir vorar skóp;
hann á það töfra-afl, sem enginn skilur,
og andar blítt á þennan vina hóp.

Það er svo gott að geta verið ungur
og gleði notið meðan dagur er;
þó brautir sumra liggi um kletta og klungur
má komast langt ef samhygð aldrei þver.
Og meðan æskan vermir vanga rjóða,
og vonarstjörnur lýsa ungum hug,
þá vaknar traust á sigursæld hins góða,
þá svífur andi manns á himin-flug.

Og hér skal ávalt ungur sveinn og svanni
mót svefni og doða hvetja andans hjör;
því það er bjargföst bölvun hverjum manni
að bæla niður æsku-táp og fjör.
Og því skal fram með bros til beggja handa,
en beita hug, sem aldrei vegur salt,
og þá mun ekkert fyrir stefni standa,
því sterkur vilji getur klofið alt.

---

## Kvöld með Unitörum.

Ég ætla ekki að pexa við prestana í kvöld,
sem paradís guðanna fundu.
En hvað sem oss flytur hin ókomna öld,
þá unnum við þessari stundu.
Sjá, vorsólin geislana á gulldiskum ber,
og gleðin á lífvarða-fylkingu hér.

Okkur sem höfum hér mælt okkur mót
og manndáð og frelsinu unnum;
það var þó í öllu okkar andstreymi bót,
að offra því bezta er við kunnum.
Og það eru nú engin bláþráða-bönd,
sem binda okkar starf yfir höf eða lönd.

Og þeir sem nú hafa hér haldið upp vörn
mót hégiljum liðinna alda,
og malað þær sundur í sannleikans-kvörn,
þeir sigra og komast til valda;
og þá verður hræsnin og hálfvelgjan dauð,
en heilnæmt til nautnar vort andlega brauð.

Að rannsaka og leita eftir orsök til alls,
er eitt, sem að mannsandinn þráir.
Og við það ber ávöxt frá fjöru til fjalls
hvert frækorn sem skynsemin sáir.
Því hvar sem að trúin á rotnaða rót
rýrnar hún, hverfur og treðst undir fót.

Því alt það sem mönnunum miðar til góðs,
og menningin hefir að bjóða —
hvort framsett í ritmáli, ræðu eða óðs,—
það reiknum við landinu gróða;
og það eru ljósin sem lýsa okkur nú,
sem leiðtogar frelsisins gáfu okkar trú.

En svo eru hópar sem hylja sig enn,
og hafa þó styrkt oss að málum;
og það eru drenglyndir, dugandi menn,

með dómgreind í heilbrigðum sálum.
En því ekki að vinna þá allir sem einn,
uns aldan er klofin og vegurinn beinn!

Og andlitin verða ekki flöktandi og föl,
sem frjáls-trúin merki sitt gefur.
Það er ekki hræðslan við helvítis kvöl,
sem holund í sál þeirra grefur.
En trúin á vísdóms- og sannleikans-sól
mun senda þeim geisla um öll komandi jól.

Þó við séum smáir og finnum svo fátt,
við fögnum því einhuga, glaðir,
að stórmenni og vísindin hefja sig hátt,
úr hafi yfir aldanna raðir.
Við sjáum að guð er að varða þann veg,
svo villist ei ókunnir, þú eða ég.

## Endurminning.

Ég man er ég kvaddi þig síðasta sinn,
mér sýndist þú hnýpinn og föl á kinn
og augun þín dimmbláu döpur.
Það hvíldi yfir sál þinni sorgblandin ró;
ég sá þó svo glögt hvað í huga þér bjó,
og — örlögin nístandi nöpur.

Mig langaði að tefja og tala um svo margt
svo töfrandi fagurt og skínandi bjart,
sem andi manns fagnar svo feginn.

En þá var sem lokaðist útsýnið alt,
og eitthvað sem snerti mig, nístandi kalt,
er hugur minn horfði út á veginn.

En nú þegar heyri ég heldunur þær,
sem himininn rjúfa, en eldlogum slær
um hauður, og hersveitum granda,
þá birtist þú alla tíð, elskan mín góð;
það örfar og hvetur mitt norræna blóð,
og veitir mér styrk til að standa.

Ég veit að svo margur á misstigin spor,
og mátti' ekki lifa sitt fegursta vor;
það fellur í gleymskuna grafið.
Ef lít ég hér síðustu sólhvörfin mín,
þá sendi ég geislana heim til þín
með hugskeytum út yfir hafið.

---

## Hjúkrunarkonan.

(Orkt 1917)

Ég vildi, systir, mega þakka þér
með þúsund kossum, margar unaðs stundir, —
því það sem helgast býr í brjósti mér
var blómgvað þínum friðar-vængjum undir.
Þú vaktir hjarta mínu dýra drauma,
sem drifu á burtu lífsins köldu strauma.

Ég flý til þín er skuggar skyggja á leið,
og skýjadrif er yfir vonum mínum.
Þá brosir þú, sem stjarna af himni heið,
þá hallast ég að munarfaðmi þínum;
og hvar sem brautir mínar framtíð telur,
þín fagra mynd í huga mínum dvelur.

Þitt augnablik, þitt heita hjarta slag,
þinn hlýji koss, þinn silki mjúki armur,
þitt milda bros, þitt netta limalag,
þitt létta fótatak, þinn hvelfdi barmur,
það eru mínir dýru verndarvættir,
sem vaka þar til andartak mitt hættir.

---

## Til Mr. og Mrs. Benjamíns Jónssonar

**á silfurbúðkaupsdag þeirra 20. ág. 1919.**

Ég svíf í anda, vinir, langar leiðir
og lít til baka yfir farna braut.
Ég sé hvar rísa hnúkar herðubreiðir
í heiðum blám, við norðurhafsins-skaut.
Og þar á sól og vornótt vöggu þýða
um víðigræna dali og upp til hlíða.

Og þar voru ykkar fyrstu draumadísir
frá djúpi seyddar upp við fossanið.
Og þar er margt sem æsku-augað fýsir

og engin fegurð getur jafnast við.
Því er oft, þá æfi fer að halla,
að endurhljómar þaðan til vor kalla.

Þið munið glögt að fyrir fjórðung aldar
í fögrum dal, á litlum sveita bæ,
þá voru beztu vinaóskir valdar
og veizlukliður barst um lönd og sæ,
og fjöllin sendu bergmáls-blíða tóna
í brúðargjöf til ykkar, kæru hjóna.

Þar stóð þín frú í björtum brúðarklæðum
með bros á vör og æsku rós á kinn.
Þá var sem sveinar allir gengju á glæðum;
þeir gátu tæpast dulið huga sinn.
En þá var mærin þér að hjarta bundin,
og því er ljúf í minning þessi stundin.

Þið hafið hlotið ylhug allra manna,
sem ykkur kyntust, bæði á fróni og hér.
Og vinahót frá hverjum góðum granna,
er gulli betri sjóður, hvar sem er.
Og þeir sem oftast hér að garði ganga,
þeir geta dæmt hvort ei var gott til fanga.

Ég lít í hilling framtíð bjarta og breiða,
sem boða ykkur langan sólskins-dag,
þar heillavættir allar götur greiða,
svo gefst að lokum heiðskýrt sólarlag;
og það er ósk og von frá vinum öllum
frá vesturströnd að efsta bæ á fjöllum.

# Til Miss P. Guttormsson.

Mér finst dauft og dýrðar lítið hér,
og dauðaþögn um alla hotel-sali;
og það finst líka mörgum fleiri en mér,
því maður valla sést nú brosa í tali.

Það var sem heimur dytti í dúna-þögn
um daginn, sem að fórstu þarna vestur;
ef þettað bráðum skánar ekki ögn,
þá ekki stöðvast hér má nokkur gestur.

Ég man þú stóðst við fónógraffinn, frjáls,
og fegurð skein af þínum andans-sjónum,
en dökkir lokkar liðu þér um háls,
og loftið fyltist unaðs þýðum tónum.

Og þú gast heillað alla inni hér,
þó eitthvað hefði máske hrygt þá áður.
Og ég fann blóðið hitna í hjarta mér,
og hoppa þetta í níutíu gráður.

Ég veit að ótal sveinar sakna þín,—
þeir sögðu mér það litli Beggi og Mundi,
og doktor Broughten drekkur eins og svín,
en Doddi sést nú ekki á neinum fundi.

Það hefir hvisast að þú yrðir sótt,—
og eitthvað verða þeir til bragðs að taka.
Svo, blessuð, komdu, komdu aftur fljótt,
já, komdu á næsta „treini" strax til baka.

# Móðir.

Í fyrsta sinn er opnast augu þín,
og örlög hulin ráða þínum kjörum,
af mjúkum höndum lagður ertu í lín,
með ljúfum kossi af þinnar móður vörum.

Og hún fann yndi að vaka og vagga þér,
og vakta þig, við hverja hreyfing sína;
og oft þig vafði' hún blítt að brjósti sér
og bað til guðs, að vernda framtíð þína.

Hún þekti og skildi öll þín bernsku brek,
og bygði með þér ótal ský́ja-borgir.
Hún kvartaði aldrei um sinn þrótt né þrek,
og þú varst hennar ljós við gleði og sorgir.

Þú getur farið út um al-heims lönd
og öllu þínu deilt við stórar þjóðir,
en þig mun alt af heitust binda bönd
við bernsku daga og ást á þinni móðir.

Og þegar flest í veröld, vinur, brást,
og vonir þínar finna hvergi gróður,
þá áttu helga, himinborna ást
í hjarta þinnar öldnu, göfgu móður.

## Fallinn vinur.

Nú sit ég í rökkri við arin eld,
því úti er hríð og frost í kveld;
ég stari í brestandi bálið.
Þar sé ég í gegnum glóð og reyk,
hinn geigvæna, svarta hildarleik;
í loganum stirnir á stálið.

Mér finst að ég horfi inn á heljarslóð,
og herskarans sjái ég líf og blóð,
þar streyma frá opnum undum;
ég sé hvar þú hneigst og mistir mátt,
og mér finst þú hvísla ofur lágt:
,,Nú slitna þau bönd, er við bundum''.

Í víggröfum stóðstu með víkings brag
og vaktaðir fjandmanninn nótt og dag,
það hneig ekki á brá þína blundur;
því skothríðin dundi í allri átt
með öskrandi sprengingar, hátt og lágt,
sem alt væri að sviftast í sundur.

Þér hraut ekki af vörum neitt æðru orð,
þó öskraði himin og skylfi storð
við þrumuna af þýzkum kúlum.
Þú hneigst eins og hetja í hinsta sinn.
Ó, hjartkæri, bezti vinur minn!

# Hluttekningar-stef til vinar í sorg.

Í hluttekning rétti ég þér heita hönd,
hjartkæri, vinur minn, góði;
ég veit hvað er sárt þegar bresta þau bönd,
sem binda vor hjörtu, vort líf og önd.
Ég sé þú berð harm þinn í hljóði.

Nú hvílir það fölnað, þitt bjarta blóm,
sem brosti við árdegis-roða.
Þú heyrðir í vorblænum unaðs-óm,
sem átti ekki skilt við þann heljar dóm,
sem feigðin og frostnætur boða.

Þú elskaðir dýrasta drenginn þinn,
og dagarnir veittu þér yndi;
við hlið þína lék hann sér út og inn
með æskunnar ljúflings bros á kinn,
og alt fanst þér leika í lyndi.

En þá kom hún, sorgin, og drap á dyr;
þá dapraðist lífsglaða þráin.
Hann veiktist, þú sast þá við sæng hans sem fyr,
með sælustu von um hann lifði hér kyr.
En, drottinn minn, nú er hann dáinn!

Nú stíga þín andvörp til himins hátt,
og harmur þinn laugast tári.
Þú spyrð nú þann hulda, helga mátt,
hví þurfti 'ann að deyja svona brátt;
hvað veldur því voða sári?

Menn fá aldrei svar, en við syrgjum þó
uns sól vor er gengin til viðar.
Sá kraftur, sem lífinu lögmál bjó,
varð ljós, þegar sérhver vinur dó,
sem harmþrungnu hjörtun friðar.

## Jólanóttin í herbúðunum.

I.

Hér er koldimt og kalt,
eins og kólnað sé alt,
sem að lífið og náttúran nýtur;
út hjá gluggum og gátt
heyrist gnauða við hátt,
meðan stormurinn þrumandi þýtur.

Hvílir sofandi sveit,
enginn sér eða veit
hvar á draumlöndum sálirnar sveima.
Ligg ég andvaka einn,
eins og ískaldur steinn,
finn þó blóðið í brjósti mér streyma.

Enginn lampi eða ljós,
engin lifandi rós,
sem að hug mínum hátíðir boða;
ekkert bros yfir borð,
engin blíð vinar orð,
alt er þrungið í drunga og doða.

Svífur hugur minn heim,
gegnum heiðbláan geim,
þar sem stjörnurnar leiðina lýsa.
Þar er alt sem ég á,
þar er ást mín og þrá,
þaðan minningar mætastar rísa.

II.

Nú byrja þar jólin með sálmasöng,
í sölunum prýddum ljósakrónum,
og börnin sig gleðja við fögur-föng,
sá fögnuður berst á þýðum tónum.
Og alt er í húsunum skarti skrýtt,
svo skínandi fagurt, bjart og hlýtt.

Ég vildi að hvert hjarta findi frið,
og fögnuð hver sál um blessuð jólin.
Ég vildi að sá kraftur legði lið,
sem lífið oss gaf, og háð er sólin,
og mýkti nú öll þau trega-tár,
sem titrandi falla um hryggar brár.

III.

Nú sé ég geisla út hjá glugganum skína,
grafa skal helgustu draumana mína.
Dagur í austrinu rósfagur risinn,
röðullinn hækkar og tendrar blysin;
nóttin á flótta um lautirnar læðist,
lífið með deginum endurfæðist.
Þei, þei! Nú heyri ég herlúður gjalla,
hljómar hann snjalt og vekur alla.
Rísa nú hersveitir, hervæðast allir;
hrópa nú foringjar: „Drengir snjallir!
Blóðþystir féndur í fylkingum bruna,
fallbyssuskotin í austrinu duna;
verja skal frelsið og frægðinni halda;
friðarins níðingum hemdir gjalda".

IV.

Heiður þinn, Canada, lifa skal lengi,
landið í heiminum frjálsast og bezt.
Þú hefir alið þá djörfustu drengi,
dáðina og kjarkinn í sál þeirra fest.
Þeir skulu merki þitt hefja svo hátt,
að heimurinn bjóði þér frið og sátt.

---

